# Hws Postilla.

Þad er

# Skijr og Ein-

fölld wtlegging/ yfer þaug
Evangelia s̄ fra Paaska Haatijdenne
og til Adventu Sun̄udags pla
ga ad fram̄setiast j Söf
nudenum.

## Annar Parturin̄.

Goodum og Gudhræddum Mon̄um/
hier j Lande til Gagns og good
rar Þienustu/ samsettur
& wtlagdur.

AF

## H. Gysla Thorlaks syne
S. H. S.

Prickt a Hoolū j Hialltadal
Af Hendrick Krwse.
Anno 1670.



In Posteriorem Homiliarum Partem
a Reverendissimo
Dn. Patre
Dn. GISLAO THORLACIO
Episcopo Holensi Religiose
Conscriptarum.

## EPIGRAMMA.

Suave Dei verbum, Pedibus Lux aurea nostris
Ad Cæli faustum limina ducit iter
Lumen id æthereo trahit a Patre Luminis ortum
Terricolis Christo prospiciente datum.
Lumen id inter nos rutilet, Vivatqve Minister
Luminis, efficiens hoc benedicta Trias.

S. E.

# I Jesu Naþne/Amen.

# Fyrsta Suñu-dag epter Paaska/Evangelium Johañ. 20 Cap.





Ad Kuøllde þess sama þuottdags/þa ed Læresueinarner voru samañ komner/ ad lucktum Dyrum/þyrer Hrædslu saker vid Gyðinga/Kom Jesus þar/og stod j midid/og sagde til þeir

ta/Fridur sie med ydur. Og þa hñ sagde
þetta/sijnde hañ þeim Hendurnar og sijna
Sijdu. Eñ Lærefueinarner gloddust vid/
ad þeir sau Herrañ. Jesus sagde þa enn
aptur til þeirra/Fridur sie med ydur. Lijka
sem Faderen̄ sende mig so sende eg ydur
Enn sem hañ sagde þetta/blies hañ a þa
og sagde til þeirra/Medtake þier heilag
añ Anda/huorium hellst þier fyrergiefed
Synderna/þeim eru þær fyrergiefnar.
Og huorium hellst þier aptur hallded þær
þa eru þær þeim aptur halldnar. Enn
Tomas eirn af þeim tolf/ sem kalladest
Tuibure/ var eige med þeim þa Jesus
kom. Eñ hiner adrer Lærefueinarner sog
du til hans/Vier hofum sied Herrañ. Eñ
hñ sagde til þeirra. Nema ad eg siae
Naglaforiñ j hans Hondum/og ad eg læ
te miñ Fingur j Naglaforiñ/og eg legge
mijna Hend j hans Sijdu/þa truie eg ecke
Og epter atta Daga voru eñ aptur hans
Lærefueinar þar jñe/Og Thomas mz þe
im/kom Jesus ad Lucktum Dyrum/stood
j midid og sagde. Fridur sie med ydur.
Sijdañ sagde hann til Thomam/Riettu
þiñ

þiñ Fingur hingad og skoda minar Hend-
dur/Lypt upp þiñe Hende/og legg j miña
Sijdu/ z vert ecke vantrwadur/helldur tru-
adur/Tomas suarade og sagde til hans/
DROTTEiñ miñ og Gud miñ. Jesus
sagde til hans. Af þui þu sast mig Tho-
ma/trwder þu/ Sæler eru þeir sem ecke
sia/og trwa þo. Mørg oñur Teikn giør-
de Jesus j Augsyn siña Lærisueina/huer
ad eige eru skrifud j þessare Bok/ Enn
þetta er þui skrifad/so ad þier trued þad
Jesus sie Christus Sonur Guds/og ad
þier so trwader/hefdud Lijf j hans nafne.

I Genesis Bok" 9 Cap. Lesum
vær/ Ad epter Flodid/þa Noe
var wtgeingiñ wr Orkiñe/
þa hafe hañ plantad eirn
Wijngard. Huad ad er ein merkeleg
Epterlijking vppa vorn Frelsara Jesum
Christum. Fyrst so myked sem Nafn-
nenu vidvijkur/þui Noe þijdist so mykid
sem eirn Huggare. So er og so Herr-
añ Christur sa rietle z sañe Huggareñ

 og

af Gude sendur/ hingad j þenañ Heim
til ad hugga oss Meñena j vorre Ar⸗
mædu og Erfide a Jordune/ huorre
DROttiñ hafde boluad/ Gen. 5. C.
Huors vegna hañ er og so ordiñ Bol⸗
uan vorra vegna/ vppa þad hañ leyste
oss fra Logmalsins Boluon. Gal. 3.
Enn so sem þad ad Noe plantade eirn
Vijngard epter þad hañ var wtgeing⸗
iñ wr Orkiñe. So hefur og so sa Hinn
nefste Noe/ vor DROttiñ Jesus Chr
istus/ strax ept' þ ad hñ var wtgeingeñ
af Ork siñar Grafar og var vpp apt
ur riseñ fra Daudum/ Plantad sier ei⸗
rn fagrañ og lifelegañ Vijngard/ þar
hañ jñsette þad heilaga Predikunar
Embætte/ og wtsende siña Læresueina
vm allañ Heimiñ/ ad þeir skylldu þañ
edla Vijngardiñ siñ (sem er christeleg
Kyrkia) rækta z Auaxtarsamañ gio
ra/ huad þeir hafa og eirnñ trwlega
giort/ ad predika Evangelium wt af
þeim Krossfesta Jesu af Nazareth/ a
medal allra Þioda/ sem vider Himmen
um

um kru/ epter þui sem Postulinn Paall vt
ttar j Pistlenum til Col. 1 Cap.
Hier vm faaum vier ad heyra nockud fle
yra talad/ wt af þessa Dags Evangel
io edur Gudspialle. Og er þad fierde
ilis tuent sem vier vilium ad slīe amiñ-
ast wt af þeim fyrra Partenum Gud-
spiallsins.

Þad fyrra skal vera vm þessa Herra-
ns Christi Opinberingu fyrer sijnum
Læresueinum.

Annad vm jñsetningu þess heilaga
Predikunar Embættis/ med þui pleira
sem vær kuñum oss wt af þessum tueim
ur Smæapunctū til Lærdoms/ Huggun
ar og Vppvakningar wt ad draga.

Sa eilijfe Lijpsins Herra/ sem virtest
ad koma hier til siña Læresueina/ hañ
kome nu og so til vor med siñe Nææd/
og giefe ad vær mættum þetta so yferve
ga/ ad þad verde hans Guddomlega
Nafne til Dyrdar/ eñ oss til Glede z
og Sæalarnota/ AMEN.

So myked sem þui fyrra Greinarkor

A iiij nenu

nenu vidvijkur/ og ahrærer Herrans Christi Openberum fyrer sijnum Læresueinum i fraveru Thomæ Postula/ þa er oss þetta fernt vel athugande. Fyrst Tijdiñ a huørre þesse Openberan hafe skied/ sem var a Paskadags Kuøllded/ epter þad hañ var af Dauda vpprisiñ. Huar aþ vier siaum/ Huad myked ad Endurlausnaranum vorum Herranum Jesu Christo/ hafe vmhugad vered vm Velferd siña Læresueina/ og allra þeirra sem hañ elska/ Þar hañ dregur ecke vndañ ad læta þa vita þad hañ sie sañarlega vpprisiñ/ helldur openberar þeim þad strax Samdægris. Eñ Ord sokiñ huar fyrer ad Herrañ villde so br ædlega læta Læresueinana sijna vita þar aþ ad hañ være vpp aptur risiñ/ var su/ Ad hañ visse vel/ ad þeim læ a onguu meir ad vita/ sier til Sæluhialp ar/ eñ þessu/ Huiad Christi Vpprisa er sa riette Grundvøllur/ vppa huørn ad øll vor christeleg Trw og Sæluhialp er bygd/ epter þui sem Postuliñ seiger
1 Cor.

1 Cor 15. Ef Christur er ecke vpp apt ur risen̄/ þa er ydar Trw onyt/ þier erud þa og eirnen̄ en̄ j ydrum Synd-um/ z þeir sem j Christo sofnader eru/ eru forrapader. Sium til a Paaska dags Morgunen̄ strax þegar Dagade openberade Jesus sig þ Mariu Magdalenu/ ap huorre han̄ hafde wtdryfed siø Diøfla/ þar eptera openberade hn̄ sig aptur fyrer Kuinnunum sem konnar voru ad smyria han̄/ og fyrer Petre sin̄ epter frasøgu Kuenan̄a var geingenn til Grafaren̄ar ad leita ad Jesu. Ept' Middeige liet han̄ sig sia af þeim luci-mur sem geingu til Emaus/ og þo hn̄ duelde hia þeim allt fram̄ ad Kuøllde/ þa openberade han̄ sig þo samt strags vm Nottena fyrer þessum sin̄um Lære-sueinum/ vm huøria hier verdur talad. Huør vill nu þar fyrer ecke jata og vid urkien̄a/ ad Jesus sie sa gode Hirderen̄ s̄ ecke læt af/ bæde a Morgna/ Midde ige og Kuølld/ ja/ allt fram̄ a Nott/ ad leita ad sin̄um Saudakindum/ og

 þær

færa þær a Veg Saaluhiaparenar.

Hugge sig nu þar fyrer allar christn ar Manneskiur vid þennan Hirderenn/ z vere vissar þar vm/ ad Jesus mune ecke helldur gleyma sier/ huorke Kuolld nie Morna/ ei helldur vm Middeige edur Midnætte/ helldur Vmhyggiu fyrer oss bera/ þui hann hefur teiknad oss j sijnum Hondum.

Pad annad sem oss er athugande j þessare fyrre Greinenne/ eru Personurnar/ til huorra ad Jesus kom/ sem voru Lærersueinarner. Enn huad veykur og aumur Selskapur þetta hafe vered/ þ vottar oss Pijningar historiann/ Munu þad ecke vera þeir sem flijdu fra Jesu/ þegar hann var fangenn j Grasgardenum? Var ecke Petur einn j bland þessara/ sem afneytade honum/ og soor sig ad hann þeckte hann ecke? Enn allt vm þad/ Ecke lætur Herrann vor Jesus þessar þeirra Auirding" hindra sig fra þui ad koma til þeirra/ O huilijkt Giæskurijke er þetta? Hier vid meiga sig hugga

gga aller Glæpamēn og Storsyndarar og þeinkia til þeirra sæu Jesu Orda sīm hañ talar hia Matth. 9 Cap. Jeg er ecke komeñ ad kalla Rietlata/ helldur Synduga til Idranar.

Þad þridia sem oss er athugande/ er Mateñ/ edur med huorium hætte ad Jesus hafe Komed til þessara sīña Lærisueina/ J Gudspiallenu stendur/ Ad hañ hafe komed þa Dyrnar voru aptur lucktar. Huar af vier lærum ad þeck ia z kañast vid Jesu Guds Sonar Magt/ Huørt ad er so stoor/ ad hun yfergeingur allañ Mañlegañ Skilning. Gieck þad ecke yfer allañ Mañlegann Skil'ning og Natturu/ þa hañ fæddest af til lucktu Meyareñar Lijfe? Var þad ecke þurdālegt/ þa hñ gieck wt af Grøfeñe/ sem þo var apturluckt/ Jñsiglud z med Vardhalldsmøñunum sterklega þervorud?

Nu sa sem so dasamlega giørde allt þetta/ og sette sig vm sijder til Guds hægre Handar/ Skyllde hañ ecke med sama

ma Guddoms Krapte kuña ad komast hindrunarlaust jñ j giegnū lucktar dyr til Lærefueinaña? Ja Herra Jesu/ all drei erum vær so hart jñeluckier/ alldrei so sterklega af nockre Neyd z Preyngin gu vmkringder/ ad þu kuñer ecke ad ko- ma til vor og hialpa oss. Verum þar fyrer ecke Otraslegner eins og Lærefu einarner voru/ huørier ad lokudu ad si- er Dyrnar vegna Hrædslu vid Gydin- ga/ Helldur seigium med hinum heila- ga David/ af Psalm. 27. Drottiñ er mitt Lioos og miñ Heilsugiafare/ fyrer huørium skal eg ottast? DRottiñ er miñ Lijfsins kraptur/ fyrer huøriū skyl lde eg hræddur vera? Jñskrifum j vor Hiørtu þa Gullvægu Huggunargrein Postulans Pals/ Rom 8. Þar hañ seiger/ Fyrst Gud er med oss/ huør kañ þa ad vera j mote oss? Huør ed ecke hlij fde sijnum Eingietnum Syne/ helldur gaf hañ wt fyrer oss alla/ Huørneñ sky llde hñ þa ecke giefa oss alla Hlute med hønum?

Þad

Pad fiorda sem vær eigum ad hugle ida wt af þessum fyrra Partenum/ er þad/ huad Jesus hafe giort og adhafst þa hañ kom jñ til siña Læresueina, Gudspiallamaduriñ seiger ad hañ ha fe stiged j mided og sagt/ Fridur sie med ydur. O huilijk gledeleg Ost er þetta? Huad kuñe Herrans Christi Læresueinum Huggunarsamlegra til ad falla eñ þetta/ Ad Jesus lætur þa vita ad Gud er til Frids vid þa? Þesse Fridarost Herrans Christi er so full- komleg/ so sem sialfur Gud Fader hef- de talad Personulega vid þa/ og sagt/ Þier vited ad þier hafed ecke ad eins yf ergiefed/ helldur z eirneñ afsuared miñ Eingieteñ Son/ þa hñ var ydar Syn da vegna Fiøtradur og bundeñ/ Eñ sia ed til/ Lijka sem þad Faderiñ er Børnu num lijknsamur/ so er eg ydur Myskun samur/ So fiærre sem þad Austred er fra Vestrenu/ Læt eg ydar Yfertrodsl- ur vera fra ydur/ Jeg þecke ydar Skop

un/ Mier kiemur til hugar þad þier er/ ud Dupt/ Psalm. 103. Nu so sem þad ad Jesus bodar hier Lærisueinunũ Frid og Sætt vid siñ Himneska Fød ur/ So bodar nu z tilseiger eirneñ Gud Fader eñ j Dag øllũ Riettruudũ Bor num sijnum Frid fyrer Jesum Christũ seigiande/ Huør vill ꝍsaka Guds wt valda/ Gud er hier sem riettlæter/ Hu ør er hñ sem Fordæmer? Christur er hier sem dæed hefur/ ja myklu helld ur sa sem vpp apftur er vakeñ/ Rom. 8.

Framveiges stendur so j Textanum/

Og sem hañ þetta sagde/ sijn de hañ þeim Hendurnar og sij na Sijdu/ Eñ Lærisueinarner glødduſt vid ad þeir sau Her rañ.

Af þessum Textans Ordum meigum vier liooslega sia z merkia/ Hu oria Verkan ad þesse openberan Herra ns Christi hafe haft hia Lærisueinun um/ sñ er/ ad þeir vrdu Hiartanlega gl

ader

ader og fegner af hans Tilkomu z Si
oon/ z þo þeir være j þyrstu med halfū
Huga/ z so sem bangner/ þar Herrann
kom so skyndelega og oforvarandis jnn
til þeirra/ þa samt sem adur/ nær þeir
sia hañ/ heyra hañ tala vingiarnlega
vid sig/ og syna sier bæde Hendurnar og
siña Siidu/ þa verda þeir allshugar
fegner/ huad ønguañeigeñ er ad vndra.
Þui huor Glede kañ stærre nockre synd
ugre Mañeskiu til ad falla eñ su/ ad me
iga sia ad sia Jesum/ huor ed so vitnar
vm sig sialfañ hia Johañem 10, Og
seiger/ Jeg er komiñ til þess ad þier skul
id hafa Lijf og fulla Nægd. Vm For
fodureñ Abraham er þad skrifad/ ad
hañ hafe haft Hiartanlega Epterlan
gan til ad meiga sia ad sia Herrans
Christi Dag/ Eñ þar kom ad/ ad hañ
sa hañ og vard gladur vid/ Joh. 8.
Huad Hiartanlega gladdest sa gamle
Simeon/ þa hñ sa Jesum j Hollðenu/
og took hañ vppa siña Armlegge/ Hr
ropade hañ ecke vpp af myklum Fagn
ade

ade og ſagde. Nu lætur DRottin̄ Þi
on þin̄ j Fride fara. Luc. 2. Nu þo ſo
ſie/ ad vær ſiaum ecke Jeſum med vorū
Lijkamlegum Augum hier j Liſſe eins
og Simeon / þa ſiaum vær han̄ þo
ſamt andlega j ſijnu heilaga Orde z þe
im hæverdugu Sacramentis. Glediū
oſſ þar fyrer med Poſtulunum Herrans
Chriſti yfer þeſſare andlegu Siooneñe/
og þad/ ad vier ſem trwum a Jeſum/ eig
um fullkomna Von ad meiga ſiaa han
ſijdar meir j Dyrdeñe Auglite til Aug
litis.

ANNad Greinarkorned er um Inn
ſetning z Stiptan þeſſ heilaga Pre
dikunar Embættis. J Gudſpiallenu
ſtendr ad epter þad / ad Jeſus hafde oſſ
ad Læreſueinunum Fridar/ z þad ſama
ecke einuſiñe/ helldur j heilar tuær Reiſ
ur/ þa hafe han̄ talad til þeirra z ſagt

Lijka ſem Faderen̄ ſende mig
So ſende eg ydur.

Þrent er oſſ j þeſſu ødru Greinarkor
neuu

nenu athugande. Fyrst/ Huor sa sie z Predikarar edur Kieñemeñena werſender. Þar næst/ Huor þa giøre hentuga og luzanlega til ad framfylgia þessu ſijnu Embætte. Og j þridia mata/ Huort ad sie Embætte Kieñemañanna.

So myked z þui fyrsta viduijkur/ Þa ſkulum vier vita/ Ad Prestar og Lærefedur Kristneñar eru oss af onguum odrum sender og ſkickader/ helldur eñ af Þm ædsta Hirder z Byskupe vorra ſaalna Herranum Jesu Christo/ þui so seiger hañ sialfur til Læresueinaña ſiña hia Marcum Gudſpiallamañe j 16. Fared wt vm allañ Heimeñ/ og Prediked Evangelium allre Skiepnu. Item/ Þa hañ vppfor til Himens/ talade hñ so til þeirra og sagde/ Þier ſkulud miñer Vottar vera/ þad er/ Þier ſkulud predika af mier/ mijnum Dasemdarverkum/ Pijnu og Dauda/ Vpprisu z Himnafør/ Bæde j Jerusalem z j allre Judea og Samaria/ og allt Jardareñar

B Enda

Enda/ Act.1. Og hi' p̄ kallast nu Pre
starner Legat' edr Sendebodar j Chri-
sti stad/2 Cor.5. Jtm̄ Christi Pienar'.
z Radsmen̄ yp' Guds Leindardomū. 1
Cor.4. Hier af hofum vier oss þetta
til Lærdoms ad taka. Fyrst hüsu þ ad
vor liufe Lausnare Jesus hefur alla
Daga Vmhyggiu bored fyrer sine Kr
istne og ber en̄ nu j Dag/j þui ad senda
goda og trwa Verkmen̄ j sin̄ Vijngard
sem oss skule vppfrœda j sonum Guds
Otta og vorum Sæluhialparefnum/
So sende han̄ þeim fyrer Flooded han̄
Riettlætisins predikara Noa/sijdā þar
epter/þa heilogu Forfedur/Spamen̄
og Konga/sem med allre Alwd og Al
voru kiendu Guds Gotu j San̄leika/
Og allra sijdast þa han̄ vppfor til Hi
mins/sette hn̄ suma til Postula/suma
til Spamanā/suma til Gudspiallara
suma til Hirdara og Lærefedra/ epter
þui sm̄ þar stendur j Pist. til Eph.4.
Þessare sine skyckun helldur han̄ enn
vid magt a vorum Dogum og mun
hallda

halllda allt til Veralldareñar enda/ Huar fyrer oss ber ad seiga hønum auð mıukar Hiartans þacker alla vora Lijfdaga. Þar næst eiga Tilhey rendurner ad læra þad hier/ ad hafa sijna Kieñefedur og Sælusorgara j Heidre/ elska þa/ Hlijda þeim og gis ra til gooda/vegna þess sem þeir eru þra sender/epter þui sem Guds Ande bijdur z skipar j 1 Pistle til Timot. 5. Cap. seigiande/ Plldungana sem vel forstanda hallde Meñ tuøfalldlegs Heidurs verduga/ Einkum þa sem er vida j Ordenu og Lærdomenum. Item seiger Postuleñ Paall til Gal. 6. Ad sa sem frædduꝛ verdur med Ordenu sku le bijta hønum allshattudum Giædū sem hañ vppfræder. Og eñ aptur sei ger hañ j Pistlenum til Hebreos 13. Hlijded ydar Kieñefedrum og fylged þeim/ Þuiad þeir vaka yfer ydrū Sæl um/ lijka z þeir ed Reikningskap þar fi giøra Sklu/so ad þeir giøre þ mz glede eñ ecke mz Andvarpan/ þui þ er ydr ecke gott.

Nier þuert a mote/ huorier hellst sem forackta sijna Sælusorgara/ amast og stugga vid þeim/ þeir hafa sier ecke an̄ ars ad vænta en̄ Straffs og þungrar Hefndar af Gude lifanda/ so sem noog leg Dæme þin̄ast til bæde forn og ny. Vm David Kong lesum vier / 2 Sam. 10. Ad þegar Hanon Kongur þeirra Ammonita forsmæde hn̄s Legata/ sem han̄ sende til hans ad hugga han̄ eptter sijne Fødurs Dauda/ og liet raka aff þeim halft Skiegged vppa Spott/ Þa hafe David orded reidur/ og j Hel slieged þiorutiju Þusund Riddaralids aff Hanons Folke/ Huad myklu framᵛ me ine þier ad þeim ædsta Konge Dyrd areñᵛ mune mislijka/ þa hans Þienur um og Sendebodum er neckud til missa giørt. Sicaum Dæme þeirra Chore Dathan og Abiram/ sem mogludu j mote Guds Mañe Moyse/ Huørsu þ ad Jørden lauk sijnum Muñe vpp og suelgde þa/ Num. 16 Eins lijka vrdu Vngmeñen̄ af Bethel sem hæddu og spott.

spottuðu Herrans Spamañ/ sundurrif
eñ af Biarndyrum/ 2 Kong. B. 2. C.

Þar fyrer skyllde eirn og sierhuor/ va
rast ad forsmaa Herrans Christi Þien
ara sem eru Prestar og Kieñemeñ/ þui
so seiger hñ sialfur vm þa/ hia Lucam
10 Cap. Huor ydur heyrer/ hañ heyr
er miet/ og huor ydur forsmaer/ hañ
forsmaaer mig sem ydur sende. Nu er
þad vyst z obrygdanlegt ad huor hellst
sem forackar DRottiñ/ hañ verdur af
tur af DRottne forackadur/ 1 Sam.
2. Psal. 18. Eñ huad hrædelegt muñ
vera ad falla j Reide hendur lifanda
Guds? Herrañ vardveite oss þar frá j
Jesu Nafne.

Nu kañ einhuór ad þeinkia so og se
igia/ Med þui ad Herrañ Christus fek
gest senda sijna Lærefueina z Postula/
eins edur med sama hætte og Faderenñ
sende sig. Munu þa Lærefueinarner
nockud hafa att ad lijda Kuol og Pi
nu fyrer Mañkynsins Synder eins og
Christur atte ad giora? Nei/ langt

skiærre/þui so vitnar Spámadurenn Esaias vm hann j 63. Cap. So talande vnd' sialfs hns eigenn Persónu/ Eg Fottred Vijnpressuna einsamall/ og þar er eingenn af Folkenu medur mier. Enn so vier mættum komast ad riettre Meiningu og Skilninge þessara Herrans Christi Orda/ þar hann seiger til Lære sueinanna sinna/ LJKA SEM FAD erenn SEnde Mig/ so sende eg ydur/ Pa skulum vier vita/ ad Christur var ecke einungis sendur af sijnum Himne ska Fødur hingad j þennann Heim/ til þess ad lijda Kuol og Pijnu fyrer Mann kyned/ Helldur var hann þar ad auke z so sendur til ad kienna og predika Guds Ord/ epter þui sem hann vottar sialfur fyrer Munn Spámannsins Esaiæ 61. seigiande/ Ande DRottins er yfer mier þar fyrer hefur hann smurt mig/ z sent til ad predika Evangelium fyrer þeim Voludu. J þennan mata seigest Jesus wtsenda sijna Læresueina og alla adra trwa Ordsins Þienara/ sem er

ad

ad kiena og predika/ Enn ecke til þess ad giøra fullnægiu/ Bot og Bitaling fyrer Margfallda Synder/ þui þad kune eingen ad giøra/ vtan Jesus alleinasta/ sann ur Gud og sannur Madur. Vær skul um og einnenn vita/ ad Jesus var send ur af Fødurnum hingad j þennan Heim/ ad hann skyllde med Kraptaverkum og Teiknum bevijsa Sannleika sijns Lærdoms/ so sem hann seiger hia Joh. 5. Cap. Þessa sømu Magt og Myndugleika gaf hann og eirnenn sijnum Lærisueinum/ Ad þeir skylldu giøra giørt Stormerke/ þui so seiger hann til þeirra hia Marcum 16. J mijnu Nafne munu þier Diøfla wtreka/ Nyar Tungur tala/ Høggorma vpptaka/ etc.

Hier kann einhuør aptur ad spyria/ Huørnenn þad kome þa til/ Ad vorer Prestar og Kiennemenn giøre ecke sømu Dasemdarverk enn nu a vorum Døgum/ sem Postularner giørdu j sijna Tijd/ fyrst þeir eru sama Embættis og Erendis wtsender eins og þeir? Hier til

 suarast

ſuaraſt ſo/ Ad Guds Ords Þienarar gi
øre eckı ſijdur nu a þeſſu tijmũ mykla z
yþernatturlega Hlute eñ Poſtulaı ner.
Er þad ecke furdanlegur Hlutur/ þa
ein Mañeſkia ſ̃ hefur liþad z alld all
añ ſiñ Alldr j alliskonar Glæpũ/ Synd
um og Rangloͤte/ Verdur ſo vmſkip
teleg þ̃ Preſtſins Amiñingar z Gudræ
kelegar Kieñingar/ Ad hun kallar vpp
z ſeiger/ Minſtu Drottiñ ecke a mijn
vmlidn Miſgiorder/ Myſkuna þu mi
er ſnarlega/ Hialpa þu mier þ̃ ſak Dy
rdar þijns Nafns/ Frelſa þu mig og
fyrergieþ mier allar mijnar Synder/
Pſal. 79. Er þad ecke og ſo eitt my
ked Furduverk/ þa eirn ſem adur heþ
ur ørvænt ſier Guds Nadar vegna
margſiolda ſiña Synda/ Fær ſoddann
Hugſuølun af ſætre Evangelij Predik
un/ Ad hañ med Hiartans Glede z Fa
gnade kall ad ſeigia med Poſtulanum
Pale. Jeg er viſſ þar vppa/ad huo
rke Daude nie Lijþ/ Huørke Engell
nie Herradæme eda Magt/ecke hid nær
læga

læga eda oꝛomna/ eige Hæd eda dypt nie nockur oñur skiepna/ fæi mig skilied fra Guds Kiærleika/ sem ad er j J. K. ottne vorum Jesu Christo/Rom 8.

Pad añad sem vær eigum ad Hug leida j þessu Greinarkorne er/ Huer Kieñemeñena giore henluga z dugan le ga til þss ad framfylgia sijnu embætte. Eingeñ skyllde þeinkia/ huersu lærdr z Velmentadur sem hañ þikest vera/ ad ad hañ af sialfum sier giete staded so j þessu Embætte/sem honum ber/ Þui vær erū ecke af sialfū oss til neyter neck ud ad hugleida/so s͡e af sialfum oss/ 2. Cor. 3. Helldur þad vier erum neyter þa er þad af Gude. J einu Orde ad seigia/ Kieñemeñerner kuña ecke ne itt ad giøra þad Gude er þægelegt og til Mañaña Sæluhialpar er nytsam legt/ vtan so sie ad þad skiee fyrer Kr apt z Verkan heilags Anda/ og þar fyrer meddeiler nu DROTTIñ vor Jesus Lærefueinunum sijnum þñ goda Heilaga Anda med þeim hætte/ Ad

hann blæs á þa/og seiger/ **Medtake þier heilagañ Anda.** J þess um Ordum giefur vor luþe Endurlausnare Jesus ollum Beikum og Vannmættugum Ordsins Þienurum eina Hiartnæma Huggun/ sem er þesse/ Ad heilagur Ande skule vera j Verke med þeim og hialpa þeim/ so þeir giete framþylgt sijnu Embætte/ Gude til Lofs/ eñ sijnum Tilheyrendum til gagns og betrunar/ so þad Ord lifanda Guds sem þeir kieña og frambera/ kome ecke tomt og Avaxtarlaust til sijn aptur/ Esa. 55.

Eñ so myked sem vidvijkur Embætt enu sialfu/ huort z huilijkt þ sie/ þ kieñ er oss Jesus j þssū Ordū/ þar hñ seiger **Huørium hellst þier fyrergiefed Syndernar/ þeim eru þær fyrergiefnar / Og huørium hellst þier aptur hallded þær**

þa

Pa eru þær þeim apturhalld nar. Hier kan̄ einhuor ad spyrja/ Huornen̄ a eg þetta ad skilia/ Seiger ecke Ande Guds fyrer Mun̄ Spamān sins Esaie so vnder Personu sialfs Herrans Christi/ j 43. Cap. Eg/ Eg em han̄ sem afmae þijnar Synder mi ña vegna/ og minest ecke þiña Misgio rda. Talar ecke sialfur Jesus so j Op enberingarbokaren̄ar 3 Cap. Jeg læ se og eingen̄ vpplijkur/ Jeg vpplijk og eingen̄ apturlætur. Og hia Marcum Gudspiallamañe 2. stendur skrifad/ Ad Pharisearner hafe sogt vid Christ um/ Huorn þeir hielldu fyrer eirn sliett an̄ og einfalldan̄ Man̄/ Huor ma Sy ndernar fyrergiefa vtan Gud eirn? Hu ornen̄ meiga Prestarner þa boda z til seigia sijnum Soknarbornum Synda na fyrergiefning z Heilaga Aflausn? Siaum til og athugum vandlega(min̄ Broder og Syster) Huad hier stendur j Textanum. Seigest ecke Christur gie

fa

pa Postulunum sijnum hier heilagann Anda? Af hvorum Ordum vid meigū fullkomlega rada og skilia/ ad Ande Guds talar sialfr þ Prestē/ z lætur hū vera so sem sin Muñ/ þa hañ tilseiger þier og bodar Aflausn og Kuittan þin na Synda j Skriptarstoolnum/ Epter þui sem þar stendur hia Gudspiallamā nenū Mattheū 10 Cap. þier(seiger Herrañ þar til Lærefueinaña sijña)erud ecke þeir sem tala/ Helldur er þad Ande mijns Fodurs. Þar þ/ Nær hellst ſ Guds Ords Þienare eda Presturiñ/ bodar þier og tilseiger af Guds alfu Aflausn og Kuittan allra þiña Synda/ þa vertu viss og ocpatur þar vppa/ ad þad er so satt og obrygdult so sem sialfur Jesus hefde vid þig talad og sagt/ so sem hū sagde til hins Jckitsiuka/ Vertu hug hraustur Sonur/ þijnar Synder eru þier fyrergiefnar. Matth. 9. Og skal þad sa skutlega sagt z talad vera wt af þessum tueimur Greinarenum/ sem eg lofade at ad mińast. Nu þeirre Hæbl

essudu

essudu GuddomsinsÞreñingu/ Födur/ Syne og Heiløgum Anda sie Lof/ Dyrd Heidur og Vegsemd/ Nu hiedan j fra/ og vm Alloer Allda/ Amen/ AMEN.

## Annañ Suñudag epter Paska/ Evangelium Joh. 10.

JEsus sagde til Gydinganna. Eg em godur Hirder. Godur Hirder giefur sitt Lijf vt fyrer sijna Saude/ Eñ Leigulid eñ/ og hañ sem ecke er Hirder huers ad Sauderner eru ecke eigenleger/ Nær hañ sier Vlfen koma/ fa yfergiefur hañ Saudena/ og flyr j burt. Og Vlfurin grijpur Saudena/ og sundurdreifer þeim. Eñ Leiguliden flyr/ af þui hañ er Leigulide/ og gæter ecke Saudanna. Eg em goodur Hirder/ og eg þecke mijna Saude/ og eg þeckest af mijnum/ so sem ad Faderen þecker mig/ og eg þecke Föduriñ og eg legg mitt Lijf vt fyrer mijna Saude

de. Eg heþe og adra Saude/sem eige eru aþ þessu Saudahwse/ þa byriar mier og hier til ad leida/og þeir munu heyra mijna Rodd. Og þar mun verda eitt Saudahws og eirn Hirder.

HEr lesum(Elskuleg Guds Børn) j gamla Testamentenu vijdar en j einum stad/ Ad marger af þeim heilogu Forþedrum og Spamonnum hafe vered Fiarhirdarar/ og ecke reiknad sier þad fyrer neina Vanvirdu edur Læging/ad geyma Saude sinna Herra og Yferbodara. Abel var eirn Saudahirder/og bar pram fyrer Gud aþ Frumburde sinnar Hiardar/og aþ þeirra Feite/Gen. 4. Jacob vaktade Saude sijns Mags Labans/Gen. 30. Moyses Guds Madur j sama mata/ geymde Hiord Mags sijns Jethro Ex 3. Eins lijka var og David eirn Saudahirder sijns Fodurs Isai/ allt til þess han var til Kongs kiøren og utvalen/ 1 Sam. 16. Og so pleyre adrer. Suo

hafa

hafa nu þa Þſſer aller/ ved ein mgiætleg Fyrermyndan vppa þañ ædſta Hirder z Byſkup vorra Sæłna/ vorn DRottiñ Jeſum Chriſtũ/ Huør ed z ſo kallar ſig ſialfz j þeſſa Dags Gudſpialle þñ goda Hirdereñ/ ſem gieſur ſitt Lijf wt ꝼ ſijna Saude. Og vilium vier þar fyrer an le ingra Jñgãgs/ vijkia til Gudſpiallſins/ Og taka oſſ wt af þui tuær Smægrei ner ad ſkoda z yþervega ad þeſſu ſiñe.

Su þyrre ſkal vera vm Trwſkap og Vmhyggiu/ ſem þeſſe gode Hirdereñ/ vor DRottiñ Jeſus Chriſtus ber þyrer ſijnum Saudakindum.

Oñur ſkal vera þar vm/ huørneñ ha ns Sauder eige ad vera ſiñader aptur a mote vid hañ.

Gud gieþe oſſ ſijna Næd/ ſo vær mæt tum hier wt æf nockud gott læra og oſſ j Nyt þæra.

ÞEgar ſa goode Guds Madur Da- vid vill wtmæla/ og oſſ fyrer Sioones ſetia Giæſkurijke og Trwfeſte þeſſa go da Hirderſins/ vid oſſ ſijnar Saudakind ur

ur/þa tekur hañ ſo til Orda j Pſalm.
23. Og ſeiger, DROTTñ er miñ Hi
rder/og mig mun eckert breſta/ Hañ foo
drar mig j grœnum Haga/ z leider mig
fram ad feſkum Vötnū/ Hañ endurnær
er Sál mijna/ Hañ leider mig a riett
añ Veg fyrer ſijns Nafns ſaker. Af
þeſſum Spamañſins Ordum meigum
vier ſia og merkia/ ad þeſſe vor Sælna
ña Hirder fæder ſijna Saude ſierdeilis
j þrefalldañ Maata.

Fyrſt fæder hañ oſſ med Natturleg
re Fædu/ þar hañ vpplykur ſiñe Hende
og ſedur allar lifande Skiepnur med
ſiñe Bleſſan/ ſo ſem þar ſtendur j Pſa.
145. Ja/ hañ wtleider Braudeð af Jø
rduñe/ oſſ Moñunū til Nytſemd*/ Pſ.
104. So nær ed hañ giefur þa ſaman
ſøfnum vier/ Nær ed hū vpplijkur ſiñe
Hende þa verdum vier mz godu ſadder/
Hylte hañ ſi't Andlit/ ſo ſkielfuſtū vær
Hañ burttekur vorn Andardraatt/ þa ꝥ
forunſt vær og verdum aptur ad Dup
te/ ſeiger hiñ heilage David j ſama Pſ
alme

alme. Suo hofum vier þa alla vora Lijkamans Biørg og Næring af þessū vorum Hirder.

Þar næst og j aňaň mæta/ Fæder þe sse vor Hirder sijna Saude/ med Andar eňar Fædu/ Huor oss verdr framreidd i Predikun Guds heilagra Orda/ og þeim heilogu Sacramentis. Hier vm talar hiñ heilage David so i Psalmen um 109. Hefde þitt Logmal DROT tiñ eige mijn Huggun verid/ þa hefde eg parest j miñe Eymd/ Eñ þijner Vitnisburder og þijn Ord þau Endurnæra mig. Og hia Spamanienum Esaiam j 25 Cap. Verdur Orde DROTTins lijkt vid eitt myked Giestabod/ sē DRottiñ hefur tilreidt af klaru Vijne Af Feyte/ Merg z Dreggiarlausu vijne/ Huar til hañ bijdur ollu Mañkyni enu/ med þessum Ordum/ seigiande/ Nu vel/ Aller þier sem þyster erud/ Komed hingad til Vatnsins/ og þier sem on gua Penninga hafed/ Komed hingad og kauped fyrer eckert bæde Vijn og

C Miolk

Miolk / Esa. 55. Siqum eñ pramar til / Mun eckᷓ þesse gode Hirdereñ fæda oss og eirneñ miog dæsamlega j þui ha verduga Kuollldmaltijdareñar Sacra mente / Quar hñ lætur fyrer oss framb̄or na verda / ecke Almeñelega Fædu / helld ur sitt eiged Holld og Blood / huort vier hans Sauder þar medtokum / j med og vnder Braude og Vijne. O huilijk edla Fæda er þetta? Ad þessu Bord hallde nu / z ad þssare Fædunie dæmdest hiñ heila ge Chrysostomus Lærefader miog mik ed / so seigiande. Nær hefur nockurn tij ma þuilijkur Hirder verid a Jardrijke / sem hefur elskad so sijna Saude / ad hñ hafe giefed þeim sitt Holld til Fædu og sitt Blood til Dryckiar. Eñ þad gi orer sa ædste Hirdereñ vor DROTT iñ Jesus Christus / vpp a þad ad vær hans Saudakindur / mættum verda hō num þess nænare og eigenlegre. Þad er skrifad vm Karlo Magnus Keysara Ad hañ hafe haft j sijnu Hofe eda Ho llu þriu Bord / tuo af Gulle / eñ eitt af

Sylf-

Sylfre/ vppa huort ad miog merkelega hafe grafeñ verid oll Verolldiñ. Enn huad er þad ad reikna/ edur samañ ad jafna vid Bord DROTTins/ Huar vppa ad Verolldiñ er ecke mælud edur vppdreigiñ/ helldur Verallldareñar Skapare oss til Fædslu framreiddur/ Þui hañ er þad lifanda Braud/ sem af Himne er ofankomed/ Huor þetta Braud etur / hñ mun lifa eilijflega et. et. Johañ. 6.

J þridia lage fæder þesse gode Hirder eñ sijna Saude/ med þeirre Himnesku Fæduñe/ Huoria vier faum ad smocka a sijdan/ þa vier erū ordner Bordsitiendur med Abraham/ Jsaac og Jacob/ Huar vær mumum drecka af Vassfalle þess lifanda Vatsens/ sem framflytur af Stoole Guds z Lambsins/ Opē. B. 22. Eñ til þessa Bordhalldsins kuñū vær ecke ad komast/ vtan vær hofū adur fyrre hier j Nadarrijkenu verid goder og verduger Gester vid Herrans Bord/ Þui ef vær vilium sijdarmeir eta Br

aud j Guds Rÿke/ þa meigum vier ecke lꝍta oss þorundra/ þo DROTTin̄ fꝍ de oss stundū a Sorgarbraude a medan vier lifum hier/ þui þad er su riętta Br aut til Lÿfsins.

J an̄an mꝍta verdur oss fyrer Sion er sett j þessare Epterlÿkingu/ su ovm̄rꝍdelega Elska/ sem sa goode Hirderen̄ vor DRottin̄ Jesus hefur til sin̄a Sauda/ huųr ed audsyneleg er þar af/ ad han̄ hefur þa Endurleyst/ ecke med for geingelegu Gulle z Sylfre/ helldur m̄z sÿnu heilaga og dyrmꝍta Bloode/ og med sÿnum saklausa Dauda og Pÿnu 1. Pet. 1. Þar fyrer syngur so christeleg Kyrkia. Lamb Guds Saudum Sigur van̄/ Saklaus Christur Frid oss fan̄/ Sꝍttande Syndugt Lid/ sin̄ Fodur vid Og Lꝍrefaderin̄ Augustinus seiger so/ O Herra Jesu/ þu hefur elskad mig me ir og framar en̄ sialfan̄ þig/ þad veit eg þar af/ ad þu ert dꝍen̄ fyrer mig. Hier vid ꝍttum vær ad hugga oss bæde j Lÿfe og Dauda.

Þad

Þad þridia sem vær eigum ad hugleí da wt af þessare Epterlijkingu/ Þa er Hreyste og Almætte þessa gooda Hirder sins/ sem hñ hefur yfer alla adra/ j þui ad vnda z vardveita sijna Saude a mo te þeim Helvijska Ulfe Dioflenum,
Þegar David geymde Hiord sijns Fød urs Jsai/ Þa kom þar eitt Leon og eirn Biorn / og took eirn Saud j burt fra Hiordeñe/ Eñ David hlioop epter høn um/ og sloo hañ / z frelsade so Saudeñ wr hans Muñe/ Eñ sem hañ reyste sig vpp j moote hønum/ þa greyp hañ j hans Kampa og sloo hañ so j Hel/ so Hefur hañ þa dreped bæde Leon z Bia rndijr/ so sem hñ seiger sialfur j 1 Sam. 17. Hier af siaum vier ad David hef ur vered Figura og Fyrermyndan vppa Christum/ Þui fyrer þad grimma Leon m ad skiliast Dioflulliñ/ Eñ fyrer þañ graduga Biorn/ Helvijte/ j huors Ku erkar vær aumar Saudakindur vorum fallner/ Eñ Jesus sa gode Hirder Sa udaña kom oss til Hialpar / og vard

Daudanum ad eirnre Olipian/ eñ Hel
vijte ad Drepsoott/ so vær meigum nu
med Fognude syngia og seigia/ Daud-
eñ er vppsuelgdur j Sigur/ Daude/ Hu
ar er þiñ Broddur? Helvijte/ huar er
þiñ Sigur/ Lofadur sie Gud sem oss he
fur Siguriñ giefed/ fyrer vorn Frelsara
Jesum Christum. Hier af meig
um vier liosslega sia z merkia/ Huør ad
sie mismunur a millı þessa gooda Hird-
ersins/og Leigulidaña/ huørier ed sly-
ia strax sem nockud j dalpar/ Eñ ecke
giører þad Jesus vor/ helldur er hñ til
Reidu sijfelldlega ad hialpa oss a mote
þeim Helvijska Vlfe Dioflenum/ þa
oss a liggur.

J fiorda lagé audsyner z bevijsar He
rrañ Christur sijna Giæsku og Hiarta
lag/ sem hañ hefur til siña Saudakin
da/ j þui ad hñ seigist þEckia Sijna
Saude/ z þ sama ecke med sliettre þeck
ingu/ med huørre hñ þecker alla Meñ
lijka vel þa vondu og Ogudlegu j Heim
inum/og veit huad j huørs Hiarta býr
Hells

Hellður með eirnre æðri og ypparlegre Þeckingu/ Quad vær meigum takda af þui Oroa tiltæke/ þar hañ seigist Þeck ia Sijna Saude / Ecke Sem þ̄ Fað ereñ ÞEcke Sig/ Og Hañ ÞEcker Foðuriñ. Það er sem hañ hefðe so mykið sagt og talað / Þier mijner Sauder / erud mier so Hiartgroner/ so sem eg er mijnum Himneska Foður Hiartkiær/og mijn Glede er að eg giøre yður til Gooda / Jeremi. 32.

Það er skrifað vm Kong Cirum/ að hñ hafe þeckt so alla sijna Strijdsmeñ/ hüier þo voru mørg þusund að tølu/ að hañ kuñe að kalla huørn þeirra með Nafne. Skyllde þa ecke DROttinn vor Jesus Christus myklu framar þeckia alla sijna Saude með Nafne/ þar hañ hefur teiknað þa j sijnum Høndum Esa. 49. Og veit huað þeir giora/og huar þeir bwa/ Openb. B. 2 Cap.

Hier af høfum vier oss það til Huggunar að taka/ að þott þar sieu fæer eða ønguer af Bornum þessa Heims sem

vilie þeckia oss/epter þui sem þar stend ur j Spekiklar Bookar 2 Cap. Þa gi exum oss til Frids/ Þar er sa sem oss þe cker og a sijnum tijma mun til vor ve rda talande þessum gledelegum Ordum Komed þier blessader mijns Fodurs/ z eignist þad Rijkid sem ydur er tilbwed fra Upphafe Veralldar/ Matth.25.

Þad e Vij:a z Vane Hirdaraña/ ad marka z einkieña Saudina med jm su moote/ so þeir meige þess hellдur þe ckiast aptur fra ødrum Saudum/ Hid sama giører og suo vor DROTTiñ Jesus Christus / Hann markar sijna Saude/ z þad sama med þrefølldu Aud kieñingar Teikne. Þad fyrsta er Te ikn KRossens. Þa Gud DROTTiñ hafde mjett ad senda Straff yfer Bor gina Jerusalem/ vegna þeirra stooru Misgiørda sem þar jñe drygdar voru/ Þa sende hañ sex Meñ þangad/ z hu er þeirra hafde skadlegt Vopn j siñni Hende/ og þar var eirn a medal þeir ra sem Lijnklæde hafde a sier/ og ein Skrif

Skriffære vid sijna Sijdu/ Hañ ætte fy
rstur ad ganga j giegnum Stadeñ/ og
Teikna med einu Teikne j Eñum þess
Folksins sem stynia og aumka sig yper
øllum þeim Suivirdingum/ sm̃ þar jñe
skie/ og hiner adrer geingu epter þessum
Skrifara/ og slou j Hel alla þa sem fyr
er vrdu/ bæde gamla og vnga/ Konur z
Born sem ecke høfdu Teiknid j sijnum
Eñum/ Ezech. 9. Eins lijka audkieñ
er Herrañ vor Jesus eñ nu j Dag/ sijn
elskuleg trwud Born/ og þad sama mz
adskilianlegum Hætte. Þañ Riettlæ
ta Job audkiende hañ med jllum Sær
um/ Job 2. Eckiuna j Sarepta med
Fatækt/ 1 Bok Kong. 17. Þañ gooda
David med Ofsokn/ sem hañ vard ad
lijda/ bæde af sijnum Mææe og sijnum
Syne/ 1 Sam. B. 19. og 2 Sam. B.
15. S. Paal med Freistingum/ þui hñ
seiger sier sie giefeñ Fleiñ j Holldid/ sm̃
ad sie Andskotans Eingell/ huor sig
med Knefum slæe/ 2 Cor. 12. Hina ad
ra wti fra/ hefur hañ audkient med jm

Ev su

su moote/so þar hefur einginn vndan ko
mist/Þuiad huor hann vill minn Læresu
einn vera/sa afneyte sialfum sier/ z ta
ke sinn Kross vppa sig og fylgte mier ept
er/seiger hann sialfur/Matth. 16. C.
Þar fyrer minn Broder z Syster/ Nær
sem hellst þu hefur þesse Kienneteikn
Herrans a þier/þa mattu þier ecke þik
ia Læging þar ad/ þui þar af mattu
vera fullviss þar vppa/ ad þu stert einn
Saudur Herrans Christi.

Þad annad Audkienningar teikned sinn
Herrann Christur setur vppa sijna Sa
ude/Er TRwarekiarteikn/sem z adr
ar goodar Dygder og Mannkoster/ sem
heilagur Ande verkar j Hiortum Gu
ds Barna/Huad allt ad er eitt obrigd
anlegt Merke þar vppa/ ad vær sieum
vtvalder af Gude til eilijfs Lijfs/ad
ur enn þad ad Heimurinn var Grund
valladur. Eph. 1.

Þridia Audkienningar teikned/ Er
Teikn JEsu Blessada BLoods/mz hu
oriu hann hefur/ecke allemasta/Endur
leyst

leyst oss/ 1 Cor. 5. Helldur þa dryckiar
hañ oss og eirniñ a þui sama/ j þeirre
Heilogu Kuolldmaaltijd/ so ad Dioful
iñ hefur ecke meira Valld yfer oss/ eñ
Mordeingelliñ hafde yfer þeim j Egy
ptalande/ a huorra Dyrustafe ad Riod
rod var Paaskalambsins Blode/ Exo.
12. Og skal þad so sagt vera vm þad
fyrra Greinarkorned.

EPterfylger med einu Orde ad miñast
þar a/ Huorniñ vær sem erum Sa
uder Jesu Christi/ Eigũ ad haga oss z
hegda vid þeñañ vorn gooda Hirderiñ
Og so vier mættum þessa Kunstena þss
betur og algiorlegar nema / z oss hana
til Nytsemdar giora/ Þa vilium vier
skoda og yfervega/ huor ad sie Art og
Eigenlegleike Saudaña/ og huoria
Leste og Dygder þeir med sier hafe/ So
kuñum vær best ad læra/ huad vier eig
um af þeirra Dæme ad giordast/ og j
huoriu vier eigũ epter þeim ad breyta.

Fyrst er þad eirn Lostur Saudarins/
ad hañ er allra Skiepna Vanvitugast

ur/þui hañ veit huorke nie skyniar hu ad sier til gagns og Nitsemdar/ edur z so til Skada og Fordiarþs ma koma/ Eins erum vier og lijka af Natturuñe til vanvituger/ jaa/ heimsker z tregier j Hiarta (so sem Herrañ sagde vid þa tuo s til Emaus geingu) z skyniū eckert af Guds Anda/ 1 Cor. 2. So vier erum ecke nepter af oss sialfum til nockud go tt ad hugleida/ jū sem aþ oss sialfum til 2 Cor. 3. Var ecke Nicodemus eirn Meistare j Jsrael/ samt veitte ho num ecke af ad skilia/ þa Christur Pre dikade honum af Endurfædinguñe/ Joh. 3. Villdiemeñe Drottningareñar Candaces aþ Morlande sat j sijnum Vagne/ og var ad lesa 53 Capitula Spamañsins Esaiæ/ þo skilde hañ eck ert j þui sem hañ las/ allt til þess ad Philippus Kom og lagde þad wt þyr er honum/ Act. 8. Eins lijka þurþum vier ecke ad treysta vppa vora eigeñ skin seme/ Huor ed þormyrkuud er j þm̄ and legu Efnum/ Eph. 4.

Þad

Þad añad sem Saudnum er opt og tijdum til Skada z storrar hindrunar Þa er su ofur mykla Hrædsla sem hm̃ pylger/ So nær hañ sier Ulpeñ koma eda heyrer Hundana giellta/ þa verdur hañ so hræddur og jstødulaus/ ad hañ hleypur huad sem þara giøret/ og veit ecke sitt riukande Raad (sem vær pløgũ ad seigia) Hid sama hender oss Meñe na og so opt og tijdum/ ad hrædsla og O stødugleike þellur oss vppa/ Eñ huad velldur þui? Ecke añad eñ Synder vor ar og Ranglæte/ Eñ soddan Otte og hrædsla er ecke riettur Sonarlegr Otte helldur Þræls Otte/ Þar þyrer skulum vær hañ þordast/ Þui vier høfum ecke medteked Þrældoms Anda/ so vier þur þum aptur ad vgga vm oss/ Helldur ein̄ Osskabarna Anda/ þyrer huørn vier køllum Abba elskulege Fader/ Rom. 8 Og huar þyrer/ miñ Broder z Syster/ huar þyrer (seige eg) vilium vid hrædder vera? Er ecke Høfdinge þessa Heims dæmdur? Og þo so sie/ ad hañ kome/

þa

þa hefur hañ eckert med oss ad giøra/ Joh. 14. Samt sem ædur skulum vær ætijd hia oss behallda Sonarlegum Ot ta/ huor ed komeñ er þar vnder ad vier þorduskum ad giøra þad jlla sem Gude mæ til styggdar vera/ Epter loflegu Dæ me þeirra Egyptskra Yfersetu Kueña/ huøriar Gud høfdu þyrer Augum sier og villdu ecke giøra epter þui sem sa Tyrañe Pharao hafde þeim befalad/ huørs vegna ad DROTTin og so bl essade þær/ Exod. 1.

Pad er og so eirn Breskur Saudaña Ad þa þeir villast einusiñe fra Hiørde ñe edur Saudahwsenu/ þa kuña þeir ecke sialfkrafa ad rata heim aptur/ hel ldur villast æ meir z meir/ allt þangad til ad Vlfurin grijpur þa vm sijder/ A lijka fer fyrer oss/ Vær geingum aller villt so s Sauder/ z kuñum øngvañeig in af vorum eigin Mætte edur Krapte ad komast aptur a rietta Leid/ nema so være ad Gud verkade j oss bæde Viliañ og Giørningin/ Phil. 2. Þar þyrer vilium

vilium vier bidia med Jeremia af hans
31 Capitula/ Snu þu oss DROTTinn
þa er oss snwed/ þuiad þu ert vor Gud.

Nu vilium vier skoda og athuga þess
su næst/ huoriar Dygder vær eigum af
Saudunum ad læra. Fyrst skulum
vær læra af þeim sama Nytne/ þui so
sem þad/ Ad Sauderner þeckia Rausst
sijns Hirders/ epter þui sem Herrann
Christur vottar j þessa Dags Gudspia
lle/ seigiande/ Mijner Sauder he
yra mijna Rødd/ Item/ Þeir
þeckia mig og pylgia mier ept
er/ En ødrum anarlegum pyl
gia þeir ecke epter. So eigum
vær og suo yfer allt pramm ad læra ad
þeckia vorn DROTTinn Jesum Ch
ristum/ og ad heyra ecke alleinasta ha
ns Rødd/ helldur og einnen honum ad
hlyda/ og epter ad fylgia/ Þuiad ef þi
er giøred þad eg ydur beþala/ þa eru þ
þier mijner Vuner/ seiger Endurlausn

ar

rañ vor sialfur hia Johañem j 15. C.
Nu er þ Rødd þessa vors goda Hirders/
Gioreð Jordan og trwed Evangelio/
Mar. 1. Þar fyrer/ huør sem vill ve
ra trwr og hlydeñ synum Hirder/ hañ
maa giøra rietta og saña Jordan. Þad
er og so Rødd þessa gooda Hirdersins/
sem þar stendur hia Johañem 14. C.
Eitt nytt Bod giefi eg ydur/ Þad þier
elsked huør añañ Jñbyrdis/ Þar af
skulu aller þeckia/ þad þier erud myñer
Læresueinar. Latum oss þar fyrer hly
da þessare hans Rødd/ og elskum voin
iafnchristeñ Naunga/ Eñ ecke med
Orde og Tungu/ helldur med Verke z
Sañleika/ so sem þar stendur i Joh. 3
Þess gooda Hirdersins Rødd og Befal
ning er þetta/ Læred af mier/ þui eg er
Hogvær z af Hiarta Lytelaatur/ Mat
11. Siaaum þar fyrer til/ ad vier vpp
hrokum oss ecke/ helldur aastundum sañ
arlegt Lytelæte/ Þuiad GUD Tiñ
mootstendur Drambla tum/ z Lytelaat
um giefur hañ Naad/ seiger Postuleñ
Piet

Aũnu: Dygdeñ sem vær eigum ad iæ
ra af Saudunum/ er riett og sõñ POL
enmæde. Vær vitum ad Sauduriñ er
eitt polennmodt og hoogvært Dyr/ Hañ
greniar ecke eins og Suijn/ Hañ bijtur
ecke eins og Hundur/ Ecke slær hañ he
lldur eins og Hestur/ eda stangar eins
og Naut/ Helldur peiger hañ fyrer pe
im sem hañ Klipper/ Skur og ecke hell
dur sijnum Muñe vpp pa hañ er til dr
aps leiddr/ Esa. 53. So eigũ vær z eir
neñ ad vera Polennmoder/ z bijda epter
Hialp Drottins/ pui þ er eitt ægiætur
Hlutr seiger Jeremias j sijnũ Har. 3. C
J pridia lage eigum vier ad læ̃kiast
Saudunũ j MEinleysenu/ puiad Sa
uderner eru Fridsamar Skiepnur z gi
ora onguñ Skada. Eins eigum vær
ad lifa sparlega/ Riettferduglega og
Gudlega j pessum Heime/ og afleggia
alla Illsku z allt Surkræde/ og Smiad
ur og Dpund/ og alla Bakmælge/ Eñ
gyrnast peirrar skynsamlegrar hreinrar

D Miolk

Miolkur/so sem nyfædd Børn/ i Pet. 2. Þui so seiger Christur sialfur hia Mattheum 18. Sañlega seige eg ydur nema þier snwest z verdid so s̄ Smaabørn/ munu þier ei koma j Himnarijke.

Þad fiorda sem vær eigum af Saud unum ad læra/ þa er þ/ Ad vier lætū oss jafnan vora Likū Nægia/ huort helldur hun er mykel edur lijtel/ og sieum til Frids med þad sem Gud oss veit er z giefur / Þui þ vitum vier/ ad þott Sauderner sieu ecke alltjafnt j eins go du Haglende/ eda þo þeir fæe ecke allt jafnt eins myked Foodur/ þa knurra þeir þo huorke nie murra þar yfer/ helldur eru þeir til Frids/ suo vel med þad minna/ sem þad meira. Þetta hefur sa vijse Kongur Salomon vel yperveg ied og athugad/ Og þui tekur hañ suo til Orda j sinne Bæn sem ha̅ framsetur fyrer Gud/ j Ordsk. B 30. C. Tuegg ia hluta bid eg þig ad þu vilier ei synia mier ædur eñ eg dey/ Fatækt og Aud æfe giefdu mier eige/ Eñ lat þu mig hafa

hafa miñ deilldan Ma'farverd/ Altars kynne eg/ nær jeg yrde Ofmettur ad af neyta þier/ og seigia/ Huør er DRO ttiñ? Eda ef eg yrde of Fatækur/ hly te eg ad stela/ z mig a mijns Guds Na fne ad forgrijpa. Æ þetta byd s..ma ætte og so ad vera vor Dagleg Bæn.

Ad sijdustu verdur oss hier fyrer Si oner sett/ GAGNseme og NYTsemd sem vær høfum af Saudum m/ þui so lenge sem Saudurin lifer/ þa giefur hañ oss af sier bæde Molk og Ull/ Ek þa honum er slatrad/ þa gefum vier hñs Kiot oss til Fædis/ ia/ þar er snart eckert a Saudnum/ s oss þiene eck- til einhúrar Gagnsemd". Hina sømu Art z Natturu ættu z so ecker goder Krist twader christne. Miñ ad hafa/ z vera Avaxtarsamer til godra verka/ þui sod þá Saud' þocknast þm ædsta Hirderniñ vorú Herra Jesu Christo v-l/ Tit. 2.

Þegar vær høfum nu lært þessar Dygd er Saudaña z oss j þm jdkad vel z kost giæfelega/ þa vill so goode Hirder Jes

Dij uß

us Endurlausnare vor elska oss og gie
ta aptur a moote til goda. Fyrst a No
tmungartijmanum/ þegar Kross z Mo
læte kiemur oss ad Nondum/ þa vill hñ
vera hia oss og hugga oss aptur/ epter
þui sem þar stendur j Psalmenum 91.
Jeg er hia þier j Neydeñe/ Jeg vil þier
wr Neydiñe witryckia/ z þig vegsamleg
an giora. Þar næst a Kreistin
gar tijmanũ/ þegar sa Nelvijske Ulfur
Diofullinñ vill hræda oss og skielfa þar
med/ ad vær hofum ecke fullkomlega
hallded Logmaled/ Ad vær hofũ ecke
lifad so heilaglega ſ oss hefr bored/ Þa
skulũ vær hugga oss þar vid/ ad vær eig
um eirn trwañ Hirder ſ fullnægiu hefr
giort Logmalenu vorra vegna/ Rõ. 8.
J þridia læge þa vill þesse goode Hi
rdereñ DROTTIñ vor Jesus Christ
us koma oss til Hialpar og Huagunar
j Vorre sijdustu NEyd/ þeg^r Daudeñ
vill oss ad Nondum koma/ Og so sem
þad ad nær eirn Hirder ser fyrer stran
gt og hart Vedur/ þa hefur hañ strax
sijna

sijna Saude ad Hwse og byrger þa þau
jnc/ so þeir krokne huorke me deye w.e
j Illvidrenu. Eins lijka giorer sa
Himneske Hirderinn/ þa hann sier ad ein
huor Olucka eda Plaaga yþerhanger/
þa tekur hann adur j burt sijn elskuleg
Trwud Born/ sem honum eru þa Nia
rtkiærust/ og byrger þau jnc vm stund
ar saker j Suefn herberge Grafanna/
Esa. 26. Allt þangad til ad hann leid
er oss aptur wt þadan/ og jnn j þad Him
neska Fodurlanded/ Huar vier munum
sia Gud/ Auglite til Auglitis vm alla
Eilijfd. Nu þangad ad koma z þar
ad glediast med ollum wtvoldum Ein
glum og Monnum/ Þad veite oss Gud
Fader Sonur og heilagur Ande/ Hu
erre heilagre Guddomsins Þrenn
ingu/ sie Lof fra eilijfd til Ei
lijfdar/ AMEN.

## Pridia Sunnudag epter Pas
## ka/ Evangelium/ Joh. 16.



Þeim tijma/Sagde Jesus til sijna Lærisueina/ Jñañ lytels Tijma munud þier ecke sia mig/ Og þa eñ jñañ Lijtels Tijma munud þier eñ sia mig aptur/þui eg fer til Fodursins. Þa sögdu sumer af hans Lærisueinum sijn á mille. Huad er þad/ ad hañ seiger til vor/ jñan lijtels Tijma þa munud þier ecke sia mig/og þa eñ jñan lijtels Tijma munud þier eñ sia mig aptur/ þui eg fer til Fodursins? Þa sögdu þeir /Huad er þad hañ seiger oss/ jnn an lijtels tijma? Vier vitum eige huad hañ seiger. Eñ Jesus formerkte ad þeir villdu spyria hañ ad/og sagde til þeirra. Þier spyried ad þessu ydar a mille/þad eg sagde ydur/Jñañ lijtels Tijma munud þier ecke sia mig/og þa aptur jñann lijtels Tijma munud þier sia mig. Sañ lega sañlega seige eg ydur/ þier munud sijta og grata/enn Heimuriñ mun fagna

og

og þier munud hrygguer verda/ enn ydar Hrygd skal snuast j Fögnud. Ein Kona nær hun skal fæda/ þa hefur hun Hrygd þuiad hennar Stund er komin. Enn þa hun hefur Barned fædt/ minnest hun ecke þess Harmkuælis fyrer Fagnadar Saker/ þui ad Madur er j Heimenn borenn. Og þier hafed nu ad sönnu Hrygd/ Enn eg skal siaa ydur aptur/ og ydart Hiarta skal fagna/ og ydarn Fögnud skal einginn af ydur taka. A þeim Deige munu þier mig ꝛ ein skis spyria.

I Exodi Bookar. 15. Cap. Les um vær/ ad epter þad ad Gud DROTTinn hafde wtleidt Israels Folk med einum styrk unn Armlegg fra þeim Egypska Þræl dome/ þa hafe þad j nockra Daga eck ert Vatn funded ad suala sijnum Þosta a/ Vm sijder fann þad Vatn j Mara/ enn þad var so beyskt ad Folked gat ecke drucked þar af/ all þangad til ad Mo

Dinn ... yses

ýses (epter Guds Befalningu) kastade Trienu j Vatned/ þa vard þad sætt/ Samt sem ædur liet DRottiñ sitt Folk ecke leinge vera j Mara/ helldur færde hañ þad til Elim/ huar þad fañ fyrer sier tolf Vassbruña og siotýu Palmvi dar Trie/ þar stadnæmdest Folkid og sette sijnar Herbwder.

Þesse Historia er eirn merkelegur Sp eigell vppa Mañ:skiuñar Lijf/ Þuiad epter þad ad Diøfulliñ hafde afvega leidt oss og giort ad Þrælum Syndar iñar/ Joh. 8. Sie þa hefur Gud DR OTTiñ wtleidt oss aptur/ og frelsad fra Vallde Myrkraña/ og þad sama fyrer Hønd sijns wtvallda Þienara Her rans Christi/ Eñ samt sem ædur erum vier ecke strax komner jñ j þad þyrerhe itna Landed/ helldur vmgaungustum vi er hier j þessare Verølldu/ so sem j aũ are Eydemørku eins z Pilmagrijmar og hliootum ad lijda margar og jmes legar Motlætingar/ Þuiad DROT Tiñ þærer sijna Heilaga vndarlega

seig

